# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, NÓVEMBER 1894. Nr. 9.

## Jólanóttin.

Eftir séra *Lárus Halldórsson.*

(Lag: *Hulde Död*; í *Bergreens Sange til Skolebrug*, 1. h., nr. 28.

Dýrðleg nótt;
dimmt á jörðu, kyrrt og hljótt.
En á himni ljósin ljóma,
lýsa drottins huldu dóma.
Degi spáir dýrðar skjótt
dýrðleg nótt.

Heilög nótt.
Himnasveitin stígr fljótt
niðr á jörð með ljóssins ljóma,
ljúfar engla raddir hljóma.
Lofar drottin hátt og hljótt
heilög nótt.

Jólanótt
jörðu flytr gœða gnótt.
Hirðar ganga' að helgri jötu,
heimsins feta frelsis götu.
Jesús sefr í jötu rótt
jólanótt.

## Skattgjaldið.

Prédikan út af Matt. 17, 24 („Geldr meistari yðar skattgjaldið?").
Flutt í Winnipeg sunnud. 28. Okt. síðast liðinn (23. e. trín.) af ritstjóra *Sam.*

þér minnizt þess líklega flestir, að ein af sökum þeim, sem bornar voru á frelsara vorn af hinum gyðinglegu óvinum hans frammi fyrir dómstóli hins rómverska landstjóra Pílatusar, var það, að hann bannaði að gjalda keisaranum skatt. „Vér höfum komizt að því, segja þeir, að þessi (maðr) afvegaleiðir alþýðuna, bannar að gjalda keisaranum skatt og segist vera konungrinn Kristr" (Lúk. 23, 2). þessi ákæra, að Jesús bannaði að gjalda keisaranum skatt, var vitanlega algjörlega ósönn og ástœðulaus. Frá sínu öfuga sjónarmiði gátu hatrsmenn Jesú meðal hins gyðinglega prestalýðs borið það fram, að hann afvegaleiddi alþýðuna. Hann kenndi að mörgu leyti alveg þvert á móti því, sem þeir kenndu. Hann sló svörtu stryki yfir svo margt og margt, er þeir héldu fram eins og guðlegum sannleik. Hann sagði þessum andlegu leiðtogum lýðsins svo hisprslaust til syndanna. Hann sagði mönnum blátt áfram, að með réttlæti Faríseanna, fremstu mannanna meðal hinna skriftlærðu, væri ómögulegt að komast inn í guðs ríki. Svo það var eins og við mátti búast, að þegar þeir á endanum höfðu náð Jesú á sitt vald og voru komnir með hann fram fyrir hinn borgaralega dómstól landsins til þess að bera þar á hann sakir, þá myndi ein aðalsökin verða þetta, að hann leiddi alþýðuna afvega. Úr því þeir vildu ekki ganga inn á það, að *þeir* sjálfir með kenningum sínum og framkomu sinni yfir höfuð leiddi alþýðuna afvega, þá var svo sem sjálfsagt, frá þeirra sjónarmiði, að *hann* leiddi alþýðuna afvega. Enn þá sjálfsagðari var síðasta ákæran, er fram var borin gegn Jesú, að hann segðist vera konungrinn Kristr. Hann var eins og vér vitum hinn fyrirheitni Messías, sem allt gamla testamentið hafði um spáð og trúaraugu allra Ísraelsbarna höfðu mœnt til gegnum aldirnar. Hann gjörði kröfu til að vera þessi einstaklega, guðlega persóna — konungrinn Kristr. Og frammi fyrir dómstóli Pílatusar stóð hann hátíðlega og hjartanlega við þessa kröfu sína. En sú sök, að hann bannaði að gjalda keisaranum skatt, hún var frá rótum upplogin; ekki minnsti flugufótr fyrir þeirri ákæru. það sést svo

greinilega á guðspjallinu fyrir daginn í dag, hinn 23. sunnudag eftir trínitatis. Það guðspjall kemr nefnilega með söguna um það, þegar Farísear, í því skyni að veiða Jesúm í orðum, sendu til hans nokkra menn af sínum flokki ásamt fylgdarmönnum Heródesar og létu þá leggja þá spurning fyrir hann, hvað honum sýndist um það, hvort leyfilegt væri að gjalda keisaranum skatt eða ekki. Jesús, sem las vonzkuna út úr hjörtum þeirra, svaraði: „Hví freistið þér mín, hræsnarar?“ en sagði síðan, að þeir skyldi sýna sér skattpeninginn. Þeir gjörðu það, og spurði hann þá svo, hvers mynd og nafn stæði á honum. Þeir sögðu sem var, — neyddust til að segja eins og var, — að það væri mynd og nafn keisarans. „Gjaldið þá keisaranum það, sem keisarans er, og guði það, sem guðs er“ sagði Jesús.— Þvert ofan í þessa yfirlýsing frá Jesú láta þeir, er þeir eru komnir með hann eins og bandingja fram fyrir Pílatus, fulltrúa keisarans í Rómaborg, eina ákæruna gegn honum vera það, að hann banni að gjalda keisaranum skatt. Þvílíkt samvizkuleysi! Þvílík rakalaus, blygðunarlaus lygi! — Enda sjáum vér í píslarsögunni hjá guðspjallamönnunum, að Pílatus sinnir þessari lyga-ákæru ekki lifandi ögn, né heldr fyrstu ákærunni, sem gekk út á það, að hann afvegaleiddi alþýðuna. Hann tók að eins seinustu ákæruna til greina, þá, að hann segðist vera konungrinn Kristr. Hann vildi vita, hvernig í því lægi. Jesús játaði því, að hann væri konungr, en gjörði þá grein fyrir konungdœmi sínu, að ríki sitt væri ekki af þessum heimi, — talaði um sjálfan sig sem fœddan og í heiminn kominn til þess að bera vitni um sannleikann. Í því var konungdœmi hans fólgið. Það snerti augsýnilega alls ekkert stjórn landsins eða hin pólitisku mál Gyðingalýðs, og þá var Pílatusi auðvitað nóg. Og úr því að þessi ákæra var fallin, þá skildist honum brátt, að hinar ákærurnar, líka sú, að Jesús bannaði að gjalda keisaranum skatt, myndi einnig vera lyga-uppspuni og markleysa ein. Niðrstaða sú, er Pílatus kemst að, eftir að hafa rannsakað mál Jesú, er þetta: „Eg finn enga sök með þessum manni“. Hann kvað að vísu eins og öllum er kunnugt á endanum, af hugleysi og hræðslu við Gyðinga, upp dauðadóm yfir Jesú. En hann vissi og játaði, að Jesús var saklaus, þegar hann felldi þann hræðilega dóm.

Eg minnist þessa atviks úr píslarsögu Jesú út af spurning þeirri, er textinn minn kemr með: „Geldr meistari yðar skattgjaldið?“ Því að þó að þessi spurning ekki eiginlega snerti ákæruna þessa sérstöku frá fjandmönnum Jesú til forna um það að hann banni að gjalda keisaranum skatt, þá liggr opið fyrir út af henni, stýlaðri til lærisveina Jesú, að hugsa um sama efnið. Með öðrum orðum: Vér fáum ástœðu til út af þessari spurning að minnast mótmælanna, sem á öllum öldum hafa komið fram á móti kristindóminum fyrir það, að hann sinni svo lítið hinum borgaralegu skyldum manna. Því það er virkilega sögulegr sannleikr, að þó að Pílatus algjörlega sýknaði höfund trúar vorrar af ákæru þessari, sem eg hefi sérstaklega verið að tala um, eins og af öllum hinum sökunum, sem á hann voru bornar, þá var sú ákæra greinilega vakin upp aftr frá dauðum óðar en hin kristna kirkja var til orðin og trúin á frelsarann hafði hafið sigrför sína víðsvegar út um heiminn. Það er Gyðingrinn gangandi í einni af hinum mörgu útgáfum, sem hann hefir birzt í á liðnum öldum. Vantrú heiðingjanna tók við af vantrú Gyðinga og slengdi stöðugt þeirri ákæru út gegn kristnum mönnum, að þeir trúar sinnar vegna sinnti svo lítið eða jafnvel gleymdi algjörlega hinum borgaralegu skyldum sínum; umhugsanin væri öll um þetta ímyndaða föðurland á himnum, en um hið jarðneska föðurlandið, þess hag og þess framför í borgaralegum efnum, hugsuðu þeir svo sorglega lítið. Þeir hirti ekki um að borga sitt jarðneska, borgaralega skyldugjald. Trúin þeirra bannaði þeim augsýnilega að gjalda keisaranum skatt. Þeir, sem á fornöld kristninnar héldu þessum ákærum á lofti, höfðu nú óneitanlega nokkra átyllu fyrir svona löguðum sakargiftum gegn kristnum mönnum. Í hinum hræðilegu ofsóknum, sem þá gengu hvað eftir annað yfir kirkjuna og alla limi hennar, voru kristnir menn dœmalaust sterkt freistaðir til að meta allt þetta jarðneska sem hégóma eða einskis virði. Trúar sinnar vegna voru þeir eins og útlagar á eyðimörk, hvervetna eins og landflótta, hvervetna eins og í dauðanum Heimrinn hratt þeim frá sér, vildi ekki viðrkenna þá eða neitt, sem þeim heyrði til. Og svo gat þá líka orðið meir en lítil freisting fyrir marga til þess að fyllast óbeit á öllu því, sem veraldlegt kallast, fyrirlíta það og jafnvel hatast við það.

Og sumir féllu fyrir þeirri freisting. Og þar með varð til átylla fyrir óvini kristindómsins til þess að koma með hinar umrœddu sakargiftir. Og þessar sakir, sem óvinir kristninnar, í mörgum einstökum tilfellum höfðu á móti játendum kristnu trúarinnar, urðu um leið mjög eðlilega, en þó algjörlega ranglátt, að sakargiftum á móti kristnu trúnni. það liggr æfinlega svo undr nærri, að blanda saman málefni og mönnunum, sem á málefnið segjast trúa. Málefninu er gefin sök á því, sem rangt eða öfugt kann að vera í framkomu þeirra manna, sem því sama málefni halda fram.

þegar menn, eins og margir kristnir menn gjörðu á þessum fornu ofsóknaröldum, féllu fyrir þeirri freisting, er þá var svo ákaflega sterk, að draga sig sem allra mest út úr heiminum, þá mátti með fullri ástœðu segja: þeir gjalda ekki keisaranum það, sem keisarans er; þeir gjalda ekki sitt jarðneska skattgjald. En frelsarinn, konungr kristninnar, á sannarlega enga sök á því. Ef beint er að oss, lærisveinum frelsarans, spurning textans: „Geldr meistari yðar skattgjaldið?“ þá svörum vér henni hiklaust játandi, alveg eins og Pétr í nafni sjálfs sín og hinna annarra lærisveina til forna svaraði já upp á þessa spurning, er hún var fyrir þá lögð. Hann galt sitt skattgjald í öllum mögulegum skilningi, þegar hann dvaldi hér á jörðinni íklæddr mannlegu holdi. Og í samhljóðan við það höfum vér skýlaust boð hans um það, gildanda fyrir alla hans lærisveina allt til dagganna enda, að fullnœgja einnig þessum jarðnesku, borgaralegu skyldum. Og vér lesum það út úr kenning hans og allri framkomu hans á hans holdsvistardögum, að hálfan kristindóminn vanti, ef þessar jarðnesku, borgaralegu skyldur eru algjörlega vanrœktar.

Eg ætla nú að hætta að tala um kristna menn í fornöld og átyllu þá, sem þeir gáfu vantrúnni, fyrir þessari ákæru gegn kristindóminum, að hann léti menn hirða svo lítið um borgaralegar skyldur. En í þess stað minnast á þetta mál í sambandi við sjálfa oss; því þó að nú sé öldin önnur, og því fari yfir höfuð að tala mjög fjarri, að kristnir menn í nútíðinni hafi freisting til að draga sig út úr heiminum eins og munkarnir eða einsetumennirnir til forna, þá man eg vel eftir því, að það er enn úr vantrúaráttinni aftr og aftr verið að brigzla mönnum kirkjunn-

ar, svo framarlega sem þeir sýna sig líklega til að gjöra verulega alvöru af sínum kristindómi, um þetta sama, að þeir sé svo skammarlega litið með í því að styðja borgaralegar framfarir mannfélagsins. Eg man eftir því, að eitt aðalatriðið í mótspyrnunni frá íslenzku vantrúnni hér hjá oss gegn hinu kirkjulega starfi voru og hinum kirkjulega félagsskap vorum, er einmitt þetta, að kirkjan, hin evangeliska lúterska kirkja vor, hljóti sökum trúarlærdóma þeirra, er hún heldr á lofti, að verða þröskuldr á vegi fólks vors til menningar og borgaralegra framframfara. Þeir sýnast, allir þessir andstœðingar kirkju vorrar, að ganga út frá því sem nokkru sjálfsögðu, að heppnist kristindómsstarf vort, þá sé þar með tekið fyrir það, að Íslendingar hér í landi geti nokkurn tíma orðið það í borgaralegu tilliti, sem þeir eigi að verða, gefið keisaranum það, sem keisarans er, goldið mannfélaginu hér sitt sjálfsagða skyldugjald. Til þessa mætti nú reyndar með allra beztu samvizku svara því, að eftir því, sem enn er komið fram, eru heldr lítil merki þess sýnileg, að þeir af löndum vorum, sem gengið hafa í skóla vantrúarinnar, sé líklegri en menn kirkjunnar til þess að lyfta íslenzkum almenningi í borgaralegu tilliti. En eg sleppi þessu algjörlega. Og dreg heldr nokkuð annað fram, sem hlýtr að hafa miklu meiri þýðing með tilliti til spursmáls þess, sem um er að rœða. Það er á yfirstandandi tíð í óða önn verið að mennta heiminn. Það er ekki það land til nú neinsstaðar um víða veröld, að ekki sé þar einhver öfl sett í gang til þess að lyfta fólkinu, sem þar er, upp úr villudómi og eymd liðinna alda. Land eftir land, þjóðflokkr eftir þjóðflokk, sem áðr huldist af myrkri allskonar villudóms, og stóð svo gott sem algjörlega utan við hinn eiginlega mannheim, er á vorum mannsaldri óðfluga að komast inn í mannkynssöguna. Ljós menningarinnar, frelsisins og framfaranna er óðum að breiðast út um hið myrka meginland, Afríku, á þessum síðustu tímum. Alveg eins yfir hinn mikla eyjaheim í suðrhafinu hinum megin á hveli jarðarinnar. Alveg eins meðal ástrálfuþjóðanna. Alveg eins, í hverja átt sem litið er. Villumennirnir, blámennirnir, „barbararnir“ hringinn í kringum jarðarhnöttinn eru óðfluga að rísa upp frá dauðum og koma inn í mannkynssöguna, inn í hóp lifandi manna. Þeir eru að umskapast og fá í sig mátt til þess að taka þátt í allsherjar menningarstarfi

mannkynsins. Þeir eru óðum að fá í sig hœfilegleik til þess að gjalda skatt til musteris menningarinnar, eins og aðrar siðaðar þjóðir. Þvílík makalaus framfaraöld, þessi, sem vér lifum á! — En hvað er nú lífsaflið eða máttarfjöðrin í þessum framförum? Það er enginn vafi á því, að það er kristindómrinn fremr öllu öðru. Það er mannkynssögunnar mesta kristniboðsöld, þessi, sem vér lifum á. Og útbreiðsla menntunar og mannréttinda og frelsis og borgaralegra framfara í hinum mörgu löndum, sem lengst af hafa verið hulin myrkri, stendr í sambandi við þetta ákaflega stórkostlega og víðtœka kristniboð nútíðarinnar. Það að fólk í þessum mörgu villumannalöndum, sem verið hafa, er hópum saman að koma inn í mannkynssöguna, það er bein afleiðing af hinu kristilega frelsiserindi, sem kristniboðendrnir hafa þangað flutt. Eg sé það ekki eins vel á neinu eins og þessu makalausa, sem hinir kristnu trúboðar hafa komið til leiðar viðsvegar um heiðingjalöndin einmitt á vorri tíð, hvílíkt undraafl kristindómrinn hefir til þess að lyfta mannfélaginu í borgaralegu tilliti til meiri og meiri fullkomnunar. Og það ætti út af þessu eina atriði að vera öllum ljóst, hvort menn muni ekki verða líklegri til þess að gjalda mannheiminum sitt skattgjald með því að ganga í trúarskólann Jesú Krists, heldr en í skóla vantrúarinnar. — Eg býst auðvitað við, að vantrúin mótmæli því, sem hér er sagt. Eg veit, að óvinir kirkju og kristindóms svo og svo margir neita því, að menningar-framfarirnar í hinum svo kölluðu heiðingjalöndum sé ávöxtr af kristniboðinu, sem þangað hefir verið flutt. En slík mótmæli eru þýðingarlaus. Það er vitnisburðr sögunnar, þetta, sem eg hefi dregið fram. Það er ekki eitt dœmi þess á þessari sömu framfara- og upplýsingaröld, að áhangendr vantrúarinnar hafi tekið sig upp og lagt á stað út í villumannaheiminn í því skyni að eyða þar eymdinni og áþjáninni, kvölinni og kúganinni, sem legið hefir yfir fólkinu í gegnum aldirnar eins og ólyftanda dauðans farg, breiða þar út ljós menntunar og mannúðar, frelsi og framfara í borgaralegum efnum. Allt, sem í því tilliti er gjört í heiminum á þessari yfirstandandi tíð, það er frá trúarlegri, kirkjulegri, kristilegri rót runnið. Og með því að sitja heima, meðan kristin kirkja hefir sína erindsreka úti í öllum áttum til þess að ryðja menntaninni braut inn í þessa myrku og œgilegu afkima mannheims-

ins, koma þessir hinir menn með þegjandi viðrkenning fyrir því, fullkomna staðfesting þess, að þeir sé kristnum mönnum miklu ólíklegri til að gjalda skatt til heimsmenningarinnar.

Spurning textans var þessi: Geldr meistari yðar skattgjaldið? — Pétr svaraði henni með já, og vér svörum henni sjálfsagt allir eins, í öllum mögulegum skilningi. Frelsari vor þarf engrar réttlætingar við frá vorri hálfu því viðvíkjanda, að hann hafi goldið sitt skattgjald. Og á því, sem tekið var fram nú næst á undan, höfum vér séð, að þegar kristna trúin er í lagi eins og yfir höfuð að tala hjá þeim mönnum, sem eru að bera erindið drottins fram í heiðingjalöndunum, þá er þar trygging fengin fyrir því, að kristnir menn *geti* þó virkilega goldið mannheiminum sitt skattgjald. Svo eg sleppi spurningunni líka í því tilliti. En eg vík henni nú við, og ber hana fram í nýrri mynd, og beini henni að yðr, sem nú eru með mér staddir hér á helgum stað: Gjaldið þér yðar skattgjald? Gjaldið þér sem söfnuðr yðar skattgjald? Gjöldum vér Íslendingar í þessum bœ eða yfir höfuð hér í þessu landi vort skattgjald? — Eg er sem sagt ekki eiginlega að tala um skattgjald til guðs. Eg er að tala um skattgjald til mannanna, mannfélagsins. Eg get reyndar með fullum rétti — frá kristilegu sjónarmiði — kallað skattgjald það, er vér allir erum skyldugir að greiða einstökum náungum vorum eða mannfélagi því, sem vér tilheyrum, skattgjald til guðs. Því skyldurnar allar, sem vér höfum við mennina, eru um leið skyldur við guð. En eg sleppi því nú. Hefi það að eins undirskilið, og bið yðr líka að hafa það undirskilið. Bið yðr að muna eftir því, að vér getum ekki staðið í skilum með skyldugjald vort til mannfélagsins, mannheimsins í kring um oss, svo að nein mynd sé á, nema því að eins að vér í alvöru séum kristnir menn, lærisveinar Jesú Krists. En af því leiðir enganveginn, að þó að menn með réttu megi kallast kristnir, og ákalli frelsarann í alvöru sem drottin sinn, þá standi þeir hinir sömu í skilum með þetta gjald, er þeim ber að greiða mannheiminum. Takmarkið, sem Jesús hefir sett lærisveinum sínum, er óendanlega hátt, og það er að sjálfsögðu dœmalaust mikið til af ófullkomnum kristindómi. Hann getr verið ekta, einlægr og hrœsnislaus, þessi ófullkomni kristindómr. Hann getr því að sjálfsögðu verið sáluhjálplegr, komið manni inn í guðs ríki,

haldið manni föstum í guðs ríki. Kristindómrinn getr verið og er oftast hjá oss þröngr; hann nær svo undr skammt út frá sjálfum oss. En hann á að vera víðtækr, svo víðtækr, að vér rétt eins og getum breitt út arma kærleikans yfir allan mannheiminn. Þvílíkt himinhátt markmið! Þvílíkt óendanlegt endimark! Gjaldið þér yðar skattgjald? spurði eg. Sumir kristnir menn virðast nærri því vera þeirrar skoðunar, að þeir standi í skilum við náungann,ef þeir gjöra ekkert á hluta hans, slást ekki upp á hann, meiða hann ekki. En það er ekki nema smáatriði, þetta, í samanburði við hitt allt, sem af manni er heimtað náunganum til handa. Og þetta er ekki það, sem að er spurt í þessu sambandi. Það er spurt um virkilegt skattgjald: að leggja eitthvað fram, eitthvað gott fram, náunganum til handa. Að elska náungann, að auðsýna honum virkilegan kærleik, í verkinu, með framkomu sinni í lífinu, það er virkilegt skattgjald. Um skattgjald getr ekki verið að ræða til náungans fyr en maðr leggr eitthvað til — ekki að eins í hugsunum og orðum, óskum og bænum, heldr og í verkinu, honum til handa, honum til blessunar. Það má aldrei gleyma því, að þetta skattgjald er af hverjum einasta kristnum manni heimtað. Frelsarinn hefir mjög alvarlega varað oss við því, að hann viðrkenni oss ekki á dómsdegi, ef vér, að því er þetta snertir, stöndum í algjörum óskilum þegar vér hverfum úr þessu lífi inn í eilífðina. Svo það verðr aldrei of sterklega brýnt fyrir kristnum mönnum, að sjá til að eitthvað gott liggi eftir sig í lífinu í þessu tilliti. En á aðra tegund af skattgjaldi til þessa jarðneska mannheims, vildi eg þó fremr minnast á nú. Það er skattgjaldið til mannfélagsins, hið félagslega skattgjald. Að menn eigi að greiða nokkurskonar skattgjald einstökum mönnum, standi í virkilegri kærleiksskuld við einstaka menn, sérstaklega þá, sem bágt eiga, það veit eg vakir fyrir flestum, þó skilin á því skattgjaldi gangi misjafnlega. En að hver einasti maðr standi líka í skuld við sitt mannfélag, eigi líka að greiða því svo eða svo stóran skatt eftir efnum og ástæðum, það dylst víst sorglega mörgum.

Hvað líðr þá þessu félagslega skattgjaldi yðar? Gjaldið þér yðar skatt í þessu tilliti? — Það eru þrjár aðaltegundir af félagslífi til: félagslíf heimilisins, hið kirkjulega, trúarlega, safnaðarlega félagslíf, og þjóðfélagslífið. *Heimili.* Það er eitt af

þeim helgustu orðum, sem til eru, þetta orð — heimili. Þér eigið allir heimili, eða eigið að eiga heimili, og það heimili á að vera yðr heilagt. Ef heimilið er yðr heilagt, þá gleymið þér eigi því, að gjalda því þann skatt, sem þér eruð því um skyldugir, eða að minnsta kosti þér kappkostið að standa þar í skilum. — *Kirkjan*, söfnuðrinn, — heimilið yðar í andlegu, trúarlegu, sáluhjálplegu tilliti. Já, væri nú það fyrir öllum. Liti allir, sem, innritaðir eru í söfnuð hjá oss, með þeim augum á kirkjuna sína og söfnuðinn sinn, þá stœði hið kirkjulega félagslíf vort meira en lítið eitt öðruvísi en nú er. Það þyrfti þá varla að minna menn á skattgjald það, sem þeir eru þessu félagi um skyldugir — eg meina ekki sérstaklega í peningalegu tilliti, heldr í miklu víðtœkara skilningi. Það eru sumir, allt of margir, sem þó að þeir hafi í söfnuð gengið, vilja hafa rétt til að lifa í andlegri lausamennsku, hafandi enga ábyrgð á því, hvað gjört er félagslega í sinni eigin kirkju, eða hvað þeim félagsmálum líðr, álítandi sig ekki fremr eiga þar heima en hvar annars staðar sem vera skal, jafnvel í hópi þeirra, sem ákveðnir eru í því að vera á móti, ekki að eins þeim sérstaka söfnuði, heldr kirkjunni og kristindómnum yfir höfuð að tala. Ó, að allir, sem í kirkju vorri standa, gæti lært að skoða hana eins og andlegt heimili sitt, sem þeir elskuðu eins og sitt eigið líf, sem þá tœki sárt til eins og síns eigin hjarta, og sem þeir því iðulega bæri fram fyrir guð í bœnum sínum eins og sinn bezta vin, einhverja tryggustu og mest ómissandi lífsstoðina sína. Það væri að standa í skilum með sitt skattgjald til safnaðarfélagsins og kirkjunnar. — Þá er *þjóðfélagið* eða ríkið, sem vér tilheyrum. Hvað líðr skattgjaldi yðar í þá áttina? Eg er dauðhræddr um, að það sé ákaflega fátœklegt, dauðhræddr um, að það sé enn þá ekki gengið upp fyrir stórum hluta af fólki voru, að andspænis ríkinu eða þjóðfélaginu, sem þeir lifa í, hafi þeir nokkra aðra skyldu en þá, að forðast illverk, sem lög varða, fullnœgja í þessum skilningi hinu borgaralega réttlæti, lifa eins og meinlausir og „skikkanlegir" menn. Nei, einu má ekki gleyma. Íslendingar taka þó nokkurn þátt í pólitík landsins, meiri þátt, að því er eg hefi fyrir satt, en þeir í rauninni enn eru orðnir menn til. Þeir greiða margir atkvæði við opinberar embættismanna- og þingmannakosningar. Er ekki það gott? Er ekki það að greiða ríkinu,

þjóðfélaginu, sveitarfélaginu sínu þann skatt, sem skylda stendr til? Eg svara bæði já og nei. Já að sjálfsögðu með tilliti til allra þeirra landa vorra hér í bœ eða hvar annarsstaðar sem vera skal, sem hafa fullkomna sannfœring fyrir því, hvernig þeir eiga í hverju einstöku tilfelli atkvæði að greiða. En nei, hiklaust nei, með tilliti til allra hinna, sem svo stendr þekkingarlega á fyrir, að þeir hafa ekki slíka sannfœring. Eg er nú alveg viss um það, að svo eða svo margir Íslendingar, sem hér taka þátt í opinberum kosningum, eru engan veginn nógu kunnugir málefnunum eða mönnunum, sem sú eða sú atkvæðagreiðslan gildir, til þess að geta greitt atkvæði eins og á að vera. Sama mætti sjálfsagt segja um marga annarra þjóða menn. En það gefr vorum mönnum ekki minnsta siðferðislega rétt til þess þekkingarlaust, sannfœringarlaust, og mér liggr við að segja samvizkulaust, að taka þátt í opinberri atkvæðagreiðslu. Menn, sem á þennan hátt, svo gott sem blindandi, greiða atkvæði við pólitiskar kosningar, eru hér í Ameríku nefndir ákaflega fyrirlitlegu nafni. Þeir eru kallaðir *voting cattle*, þ. e.: gripir, sem smalað er saman af útsendurum þess eða þess kandídatsins, til þess með atkvæði þeirra að styðja að kosning hans. Eg vildi segja við alla landa mína, hvort sem þeir standa innan kirkju eða utan: Látið aldrei nokkurn tíma nokkurn mann fá ástœðu til að kalla yðr þessu fyrirlitningar-nafni. Greiðið aldrei atkvæði sannfœringarlaust. Sitjið heldr æfinlega heima, þegar kosningar fara fram. Það styðr enginn þjóðfélagið sitt með sannfœringarlausri atkvæðagreiðslu. Kappkostið heldr að afla yðr þekkingar á landsins málum, og þar með þá líka á hinum brennandi spursmálum, sem kosningarnar snerta, og þar með þá einnig á hinum opinberu mönnum, er þá og þá eru framboðnir til embættanna. Þá fyrst, þegar slík þekking er fengin, er hœfilegt, að nokkur greiði atkvæði. Að afla sér þekkingar á hag síns eigin þjóðfélags og leggja svo fram atkvæði sitt með fullri sannfœring og eftir beztu samvizku, það er að gjalda þjóðfélaginu sitt skattgjald. — Feðr og mœðr, látið börnin yðar menntast. Hér er fullt upp af skólum, fullt af œðri og lægri menntastofnunum. Notið þau miklu borgaralegu hlunnindi börnunum, unglingunum til handa, svo að enginn Íslendingr vaxi hér upp ófœr sökum upplýsingarleysis, þekkingarskorts á

högum landsins, til þess að taka þátt í hinum opinberu kosningum, ófœr til þess í pólitisku tilliti að verða landinu að liði Ríki — þjóðfélag — nefndi eg. þriðja nafnið á því sama er *föðurland*. þegar það nafn er nefnt, þá fer nafnið að verða heilagt. það stendr nokkuð einkennilega á fyrir oss Íslendingum hér í Ameríku, eins og öllum öðrum hingað fluttum þjóðflokkum. Vér eigum tvö föðurlönd: þetta, sem vér nú erum í og þar sem flestir af oss sjálfsagt bera beinin, og hitt, hið íslenzka fyrir handan hafið, þar sem vér, allir hinir fullorðnu, erum bornir og barnfœddir, og þaðan er vér höfum allan vorn þjóðernislega arf. — Hvað líðr skattgjaldi yðar í þessa átt? — skattgjaldinu þessu sérstaka, er á yðr liggr sem Íslendingum? það eru sumir, sem skammast sín fyrir að vera Íslendingar, og reyna að kasta burt úr andlegri eign sinni öllu því, sem íslenzkt er. það stendr stór skuld upp á þá alla. Og þeir gjöra þessu landi ekki neinn greiða með því að láta þá skuld ógoldna. Minnizt þess allir, þér, sem kristnir eruð, hvað hinir miklu menn heilagrar ritningar elskuðu heitt þjóðina sína og föðurlandið sitt. Munið eftir Jósef í Egyptalandi. Munið eftir Móses í eyðimörkinni. Munið eftir Gyðingastúlkunni Ester eftir að hún var orðin drottning Ahasverusar Persakonungs. Munið eftir Daníel í Babylon. Munið eftir Jeremíasi á rústum síns föðurlands. Munið eftir Páli postula. Hvað dásamlegan skerf þeir allir lögðu til föðurlandsins síns! Hvað heitt þeir allir elskuðu sína vesalings þjóð! En munið þó fremr öllum öðrum einnig í þessu sambandi eftir frelsaranum sjálfum, og látið hina guðlegu föðurlandsást hans sem manns æfinlega halda vakandi í huga yðar þeirri heilögu skyldu yðar, að bera velferð hins fátœka íslenzka föðurlands yðar fyrir brjósti, varðveita og frjóvga hér í nýju landi allt gott í hinum þjóðernislega arfi yðar, og styðja félagslega að því, að aðrir gjöri hið sama. Gjaldið skatt yðar sem Íslendingar.

„Geldr meistari yðar skattgjaldið?“ þannig spurðu þeir lærisveinana, sem það sérstaka skattgjald áttu inn að heimta í Kapernaum. Hvaða gjald? það var, eins og áðr er á vikið, ekki hið almenna þegnskyldugjald til rómversku stjórnarinnar. það var alveg sérstakr skattr, sem hver einasti fullorðinn Gyðingr samkvæmt lögmáli Mósesar átti að greiða til musterisins í Jerúsalem (sbr. 2. Mós. 30, 31). Frá guðlegu sjónarmiði þurfti

Jesús auðvitað ekki að borga neinn slíkan skatt. Hann var sjálfr herra musterisins, og var því í rauninni upp yfir það hafinn að inna slíkt gjald af hendi. En hann borgaði þennan skatt eins og hver annar þegn hins gyðinglega guðveldis. Hann opinberar sinn guðlega undanþágurétt frá þessu skattgjaldi með því við þetta tækifæri að láta yfirnáttúrlegt kraftaverk fram koma. Lesið söguna seinast í 17. kap. Matteusar guðspjalls. Pétr kastar eftir boði Jesú út öngli í Genesaretvatnið, opnar munn fisksins, sem hann dregr, og tekr þaðan pening, mátulega stóran upp í hið umrædda skattgjald þeirra beggja. Hann opinberar sinn guðlega mátt mitt í sinni mannlegu löghlýðni. — Lærið þá allir af honum að gjalda þetta sérstaka skattgjald, sem eg var nú síðast um að tala, hið þjóðernislega, íslenzka skattgjald, eins og ræktarfullir og löghlýðnir þegnar hins heilaga guðmanns og eins og þeir, sem hjá honum hafa gengið í skóla til þess meðal annars að læra elsku til föðurlandsins síns og þjóðarinnar sinnar.

---

## Þrjúhundruð ára afmæli Gústavs Adolfs.

Hinn 9. Desember í ár verða þrjú hundruð ár liðin frá fæðing Gústavs Adolfs, hins fræga og glæsilega Svíakonungs, sem á sinni tíð, 17. öldinni öndverðri, var „sverð og skjöldr“ lútersku trúarinnar og hins prótestantiska heims yfir höfuð. Og er í hinum lútersku löndum norðrálfunnar undirbúningr gjörðr til alls-herjar júbílhátíðar, er haldin verðr þann dag til þess að heiðra minning hans, ryfja upp fyrir almenningi nútíðarinnar hina miklu og blessunarríku þýðing, sem líf hans og æfistarf hefir haft í mannkynssögunni, og þakka guði fyrir það, að hann lét þessa miklu hetju koma fram á sjónarsvið sögunnar, kristinni trú og andlegu frelsi til varnar, þegar hvorttveggja var í svo ógrlegri hættu út af framgangi páfatrúarmanna.

Vilhjálmr 2., Þýzkalandskeisari, hefir með lífi og sál stutt að því í ríki sínu, að júbílhátíð þessi verði sem stórkostlegust, og meðal annars látið boð út ganga um það, að allir skólar ríkisins skuli taka þátt í henni. Júbílguðsþjónustur verða og við þetta tækifæri haldnar í öllum kirkjum prótestanta á Þýzkalandi. Í Svíþjóð, föðurlandi Gústavs Adolfs, verða hátíðahöldin út af 300 ára afmæli hans ekki síðr mikilfengleg. Óskar kon-

ungr hefir skorað á þegna sína bæði þar og í Norvegi að gjöra 9. Desember í ár, sem er sunnudagr (hinn 2. í jólaföstu), að almennri kirkjulegri þjóðhátíð; en daginn næsta á undan eiga hátíðahöldin að fara fram í skólum öllum og öðrum opinberum stofnunum, bæði œðri og lægri. Danakonungr er líka með í því að láta í sínu ríki heiðra minning hinnar sœnsku söguhetju; eins prinzinn af Wales, og heill skari annarra prótestantiskra þjóðhöfðingja. Í sambandi við júbílhátíð þessa er það og, að félag eitt mikið á þýzkalandi, er nefnt er eftir Gústav Adolf og stofnað var árið 1832, hefir áformað að reisa hinum mikla konungi, er það kennir sig við, minnisvarða í Berlinarborg, og á sá minnisvarði að verða í sinni tegund eitthvert mesta og skrautlegasta listasmíð, sem nokkurn tíma hefir gjört verið. Keisari þýzkalands er höfuðmaðr í þessu fyrirtœki, en ekki er búizt við, að minnisvarðinn verði fullgjörðr fyr en að einum tíu árum liðnum.

Víða í lútersku kirkjunni hér í Ameríku, en einkum meðal Svía í aðalkirkjudeild þeirra, Ágústana-sýnódunni, verða og hátíðahöld á afmælisdegi Gústavs Adolfs, hinn 9. Des. næstkomanda. Og er eins og að sjálfsögðu búizt við því, að ríkulega verði við það tœkifœri offrað til kristilegra og kirkjulegra fyrirtœkja.

þegar Gústav Adolf, að eins 17 ára gamall, kom til ríkis í Svíþjóð eftir föður sinn, Karl konung hinn 9., árið 1611, var land hans í miklum nauðum statt. það átti þá í ófriði við þrjú nábúaríkin: Danmörk, Pól-land og Rússland. En með hinum miklu hœfilegleikum sínum heppnaðist hinum unga konungi að frelsa ríki sitt frá hættu þeirri, er yfir því vofði. Árið 1613 var ófriðnum við Dani lokið og við Rússa 1617, en við Pólverja hélzt stríðið allt af öðruhvoru þangað til 1629. Ári síðar (1630) hóf Gústav Adolf hina stórfrægu herför sína til þýzkalands, aðallega í því skyni, að hjálpa hinum prótestantisku trúarbrœðrum sínum þar gegn ofrefli kaþólskra manna. Voldugasti höfðinginn á þýzkalandi, Ferdinand keisari í Austrríki, var rammr páfatrúarmaðr, og hafði hann og hinir kaþólsku bandamenn hans nálega gjört út af við prótestanta, þegar Gústav Adolf tók fram í þann ófrið (þrjátíu ára stríðið svo kallaða, er byrjað hafði árið 1618). Árið 1631 átti hann ásamt Söxum, er gengið höfðu undir merki hans, bardaga við keisaraherinn hjá Breitenfeld (í nánd við

Leipzig), og vann þar frægan sigr, og árið eftir annan bardaga við ána Lech í Bæjaralandi, og féll Tilly, aðalherforingi keisarans, í þessum síðar nefnda bardaga. Wallenstein tók við yfirstjórn yfir her keisarans að Tilly látnum, og barðist Gústav Adolf við hann hjá Lutzen hinn 16. Nóv. 1632; vann hann þar enn sigr, en sá sigr var dýrkeyptr, því í þessari orrustu féll hinn mikli Svíakonungr, að eins 38 ára gamall.

Gústav Adolf var stjórnvitringr mikill og hershöfðingi einhver hinn ágætasti, sem mannkynssagan veit af að segja, en merkastr er hann fyrir það, að hann varð verkfœri í hendi guðlegrar forsjónar til þess að hjálpa við málefni kristninnar, þegar það var í svo voðalegri hættu.

---

Hinn 30. Okt. var samkoma að Mountain í Norðr-Dakóta; en tilefnið var það, að þá skyldi afhjúpaðr minnisvarði, sem reistr hefir verið séra Páli heitnum Þorlákssyni, á leiði hans í Víkrkirkjugarði. Voru þá liðin 12 ár frá því séra Páll dó og 15 ár frá því hann stofnaði íslenzku nýlenduna í Pembina Co., N. Dak. Samkvæmið fór fram í kirkjunni, og var þar sungið, leikið á hljóðfœri og rœður fluttar. Séra Fr. J. Bergmann gaf góða lýsing á hinum látna. Hr. Runólfr Marteinsson talaði um byltingar, kosti þeirra og ókosti. Séra Jónas A. Sigurðsson minntist hins látna í sambandi við reformazíónshátíðina, er um þær mundir, eins og vandi er á hverju ári, var haldin víðsvegar í lútersku kirkjunni. Séra Steingrímr Þorláksson, bróðir séra Páls heitins, minnti á trú þá, er hinn látni hefði haft á málefni því, er hann vann fyrir, og guðdómlegleik guðsorðsins, svo og á kærleik hans til landa sinna og umhyggju hans fyrir velferð þeirra bæði líkamlegri og andlegri. — Eftir rœðuhöldin var gengið út í kirkjugarð og að minnisvarðanum. Var hann svo afhjúpaðr og helgaðr minning hins látna.

Varðinn er úr enskum granít, mjög veglegr, með hreinum og óbrotnum svip. Einu útbrotin á minnisvarðanum er blæja höggvin efst á honum, sem fellr af toppnum lítið eitt niðr. Á steininn er grafið nafn séra Páls, fœðingar- og dánar-ár, einnig árið, sem hann prestvígðist, og árið, sem hann stofnaði nýlenduna.

Á samkomunni komu inn rúmir 18 dollars, er ganga eiga upp í kostnaðinn við minnisvarðann, sem er all-mikill. Vonanda er, að þeir menn, sem sátu á síðasta kirkjuþingi, gleymi ekki loforðum þeim, er þar voru gjörð, um stuðning að samskotum hjá almenningi upp í minnisvarðakostnaðinn. Hver kirkjuþingsmaðr setti sér nefnilega, að vera búinn að safna ofr-litilli upphæð í þessu skyni, þó ekki væri meira en 2—3 dollars, fyrir

næsta kirkjuþing. Steinninn á leiði séra Páls Þorlákssonar ætti eigi að eins að vera minnisvarði yfir honum, heldr líka steinn, sem sýndi öldum og óbornum, að Íslendingar kunna að meta sína menn.

---

Borgað til minnisvarðans yfir séra Pál heitinn Þorláksson og afhent hr. Jóni Þorlákssyni á Eyford, N. Dak.: frá Sigurði Björnssyni $2.00, Jóni Björnssyni $0.50, Mr. & Mrs. E. Þorvaldsson $2.00, Kvennfélagi Víkrsafn. $25.00, Birni Jónssyni $0.25, Guðm. Jóhannessyni $5.00, Þorbjörgu Eiríksdóttur $1.00, Jóhannesi Torfasyni $1.00, Jóni Níelssyni $0.50, Páli Vigfússyni $1.00.

---

Til bókasafns kirkjufélagsins: Bjarni Jónsson, Minneota, $5.00.

J. Bj.

---

Í ritgjörðinni í síðasta blaði „Úr heimi vísindanna" er á 117. bls. misprentað: *Frampartana* í líkömum dýra og jurta, í staðinn fyrir *Frumpartana* o. s. frv., og seinna á sömu bls. *framhólfið* í staðinn fyrir *frumhólfið*.

Í 2. sálmi Davíðs í April nr.i *Sam.* eru síðustu hendingar tveggja versa, hins 1. 3., of stuttar. Það er misprentan. Hending fyrra versins á að vera: „að hugsa sér að fella drottins veldisstól", og hins síðara: „hve hátt hann reiðir tignar-veldissprotann þá". — Og í 36. sálmi Davíðs í Júní-nr.inu hefir í 5. v., 3. h., misprentazt *í* í staðinn fyrir *úr* (lífs *úr* lindum tærum).

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fyrsti ársfjórðungr 1895.

1. lexía, sunnud. 6. Jan.: Jóhannes skírari hálshöggvinn: Mark. 6, 17—29.
2. lexía, sunnud. 13. Jan.: Mettan fimm þúsund manna: Mark. 6, 30—44.
3. lexía, sunnud. 20. Jan.: Kristr brauð lífsins: Jóh. 6, 25—35.
4. lexía, sunnud. 27. Jan.: Játningin mikla: Matt. 16, 13—23.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 164 Kate St., sendir út „Sameininguna".

---

Hr. **Sigrbjörn Sigrjónsson** (164 Kate St.) hefir frá útgáfunefnd „Sameiningarinnar" fengið umboð til að innkalla hinar útistandandi skuldir blaðsins, nema frá kaupendum í Dakota, þar sem séra **Friðrik J. Bergmann** er innköllunarmaðr. Féhirðir blaðsins er hr. Jón Blöndal, 545 William Ave.

---

**Séra Jónas A. Sigurðsson** hefir góðfúslega tekið að sér innheimtu á útistandandi skuldum *Sameiningarinnar* í söfnuðum sínum. Eru því allir kaupendr blaðsins á Akra, Hallson, Pembina, Grafton og Hensil vinsamlega beðnir að standa greiðlega í skilum við hann á öllu því, er þeir skulda blaðinu.

Fr. J. Bergmann.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave. Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.